Betri er biðlund beðin, enn brátt ráðið.
Betra er heilt enn vel gróið.
Betra er autt rúm enn illa skipað.
Djarfur er hverr við deildan verð.
Drjúg eru morgunverkin.
Dygð er gulli dýrmætari.
Ekki er gaman nema gott sè.
Ekki er ráð nema í tíma sè tekið.
Endirinn skyldi í upphafinu skoða.
Enginn verður ágætur af engu.
Fárr veit hverju fagna skal.
Fátt er spárra enn hugurinn.
Fátt er það sem fulltreysta má.
Fagurt er hold fjærri beini.
Gott má af góðum hljóta.
Gott er góðum að líkjast.
Gjörla skal gott nýta.
Hófið er betst í hverjum leik.
Hægt er heilum vagni heim að aka.
Hægra er að kenna heilræðin enn halda.
Illur feingur illa forgeingur.
Illur á ílls von — af íllum er ílls von.
Kapp er betst með forsjá.
Kornið fyllir mælirinn.
Lengi man til lítillar stundar.
Lengi skapast manns höfuðið.
Lög eru bræðra sættir.
Maður er manns gaman.
Mikið skal til mikils vinna.

Mátinn er marghæfastur.
Margur er knár þó hann sè smár.
Mjór er mikils vísir.
Mjótt er mundángs hófið.
Mörg eru manna mein.

---

## 20. Vetrarvika.

---

*Ætíð kemur nýtt og nýtt; skodið Börn! enn þá nýtt letur, sem heitir Kúrsiv-eda Snarhandar-letur, og brúkast á atriðisorðum í latínskum leturgjörðum, eins og Schwabacher stafirnir í almennu bóka-letri. Guð gefi mér lyst til gott að læra.*

*A a B b C c D d E e F f G g H h I i J j K k L l M m N n O o P p Q q R r S ſ s T t U u V v W w X x Y y Z z Þ þ Æ æ Ö ö.*

### Frammhald Málsháttanna.

Náttúran er námi ríkari.
Nýtur er hverr sig fæðir.
Námfús yðni vinnur allt með viðleitninni.
Opt má lítið laglega fara.
Opt má satt kyrrt liggja.
Opt er í holti heyrandi nær.
Opt hafa litlar vonir að góðu orðið.

Rett er betst, en rángt er verst.
Raunin er ólýgnust.
Saunleikurinn er sagna betstur.
Sá veit gjörst sem reynir.
Sjaldan er bára stök.
Skemtinn maður er vagn á vegi.
Sínum augum lítur hverr á silfrið.
Tamur er barns vaninn.
Tvisvar verður gamall maður barn.
Úti er þraut þá unnin er.
Úlfur er sá með úlfum venst.
Vandi fylgir velsemd hverri.
Vitið er verði betra, þó varla fái það allir.
Víða er mannsins getið.
Verkið lofar Meistarann.
Verður er verkamaðurinn launanna.
Viljinn dregur hálft hlass.
Vinur er sá, er til vamms segir.
Yðnin eykur alla meunt.
Það úngur nemur, gamall hefir.
Það er lítið vit, að gángast fyrir lít.
Það er ekki allt gull, sem glóir.
Þeim er mein, sem í myrkur rata.
Þolinmæðin þrautir vinnur allar.
Æran er mest verð.
Öl segir allan vilja.
Öllum er batinn boðinn.
Öllum kann yfir að sjást.

## 21. Vetrarvika.

---

*Nú eruð þið, góðu Börn! komin svo vel á veg að stafa og taka saman, að nú er þörf að fá ykkur nokkrar fastur lestrar-reglur að styðjast við. Þær koma þá hér; gætið nú vel að!*

### Stöfunar - og - lestrar - reglur.

Ven þig strax, barnið gott! á fallegt stöfunar-lag, það býr undir gott lestrarlag á síðan. — Brýn vel raustina, svo hún sè hrein og hvell, ekki dymm eða murrandi. — Nefn hvern bókstaf svo skírt, sem getur, og úttala aðkvæðin, heldur snöggt enn seint, tak þau síðan stillt saman í fyrstu, uns orðið er komið heilt, en brúka ávallt eptirþánka. — Hvert aðkvæði, þegar því fyrsta sleppur af tveggja og fleiri aðkvæða orðum, elskar gjarnast í sínu máli að byrja á hljóðstaf, t. d. staf-ur, pilt-ur bækl-íng-ur; nema orðið sè samsett af fleirum orðum, t. d. blaðsíða, trè-sleif, mat-borð. — Varast áttú strax við aðkvæði og orð að draga seim, og hvern annan kæk, því hann gjörir lestur á síðan óáheyrilegan; þess vegna geta ekki allir sagst að lesa vel, þó lesa kunni —. Þegar til lestrar kemur, þarf að laga róminn eptir efn-

inu, lesa með athygli, stillt og greinilega, og í því falli vandlega athuga eptirfylgjandi:

## Helstu skilmerki
### orða og greina á milli.

, Stryk (comma), sem er hið minnsta skilmerki, og þýðir: að hika skuli lítið eitt við í framburðinum.

; Hálfpúnctur (semicolon), aðgreinir þánka, þó í sömu meiníngu eða klausu, og þýðir: að staldra skuli lengur við eða jafnvel anda.

: Tvípúnctur (colon), bendir til meiníngar, sem vikið er á að eptirfylgi, og skal hér því anda, t. d.: hann tók þannig til máls:

. Púnctur (punctum), er hið mesta þagnarmerki, og sýnir að klausan sé á enda.

? Spurníngar-merki (qvæstio) brúkast að endaðri spurníngu, t. d. hvað varð um kverið þitt?

! Upphrópunar,-undrunar,-eða ávarps-merki (exclamatio), eptir sem á stendur, t. d. bíð þú nú við, góðurinn minn!

- Samtengíngar-merki (devis), brúkast þegar orði er skipt milli lína, eða það er sett saman af tveimur, t. d.: penna-fjöður, stöfunar-kver.

() eða [] Innilokunar-merki (parenthesis),

innsirklar þánka, sem heyrir til frekari upplýsíngar efninu, og sem þess vegna er skotið inní meinínguna, eins og sèst af framandi nöfnum skilmerkjanna hèr að ofan.

— Þánkastryk (pause), brúkast einkum þegar hastarlega er vikið frá einu ræðuefni til annars — til aðgreiníngar í samræðum — á millum stuttra sundurlausra þánka — sjá hèr að framan blss. 17 - 19, 21 - 22, 33 - 34, 43. — og líka brúkast það margopt fyrir innilokunar merki.

' Fránáms - merki (apostrophus), sýnir að hljóðstafur sè úrfeldur, eða eigi úr að fellast; t. d.: Ó sál' ódauðleg mín! efld' eg heill þína?

Merk: Auk þeirra hér töldu skilmerkja eru:
„ Tilvitnunar - merkið (hyphe).
„:„ Ítrekunar - merkið (repetitio) og
§ Greinaskipta - merkið (paragraph).

---

## 22. Vetrarvika.

---

*Nú endar Góu-mánuður á Mánadaginn kemur, og þá eru einar 4 vikur rúmar til Sumars; neytum okkar því vel þessa viku, kæru börn! hér eru enn þá nokkrar aðgætsluverðar.*

### Lestrar - reglur.

I einstökum ritum finnst au brúkað fyr-

ir ö, t. d.: sauk fyrir sök, aullum fyrir öllum, etc.

Au, í framandi túngua nöfnum og orðum lesist sem á, t. d,: author eða auctor les: Átor, áktor; Áugustus, les: Águstus; Paulus, les: Pálus; Saul, les: Sál, etc.

C fyrir framan e, i, y, æ, er lesið fyrir s, t. d: cedrus (viðar tegund), ceremonia (tíða-skikk), citera (vitna til), Cicero (manns nafn), Cyrus, Cæsar, Lucæ, Marci, les: sedrus, seremonía, sítera, Sísero, Syrus, Sæsar, Lúse, Marsi. Standi c þarámóti fyrir framan a, o, u, er það lesið fyrir k, t. d: Cain, cautión, (borgan), comma, cólon, cúrator (formyndari), cúrere (lækna), les: Kain, kátsíón, komma, kólon, kúrator, kúrere, rètt eins og minnisvísan ákveður:

C fyri framan o, u, á,
Eins hljóðar og væri k;
En fyri framan e, æ, i,
Sem essi skalt þú kveða' að því.

Í orðum sem koma af frönsku, lesist ou fyrir ú, t. d: courant (gángmynt), cours (verðhæð á peníngum), couvert (umslag), tour (vegur), les: kúrant, kúrs, kúvert, túr.

Ph í upphafi orðs lesist sem f, t. d: Philippus, Pharaó; les: Filippus, Faraó. Í miðju orði sem ff, t. d: Sophia, Stephan, les:

Soffía, Steffán; en í enda sem einfalt f. t. d: Asaph, Joseph, les: Asaf, Jósef.

T blýstrar, þegar það stendur í miðju orði fyri framan í og annan hljóðstaf til, t. d: Martius, lectia, Pontius, auction (umboð), Visitatia (skoðunar - för), les: Martsíus, lektsía, Pontsíus, áktsjón, visitatsía.

X lesist sem Ks, t. d: Xerses, Xantippe, les: Kserkses, Ksantippe.

Z úttalast eins og feitt s í upphafi, t. d: Zion, Zebedæus, les: Síon, Sebedæus, en í miðju optar sem ds, t. d: Nazaret, les: Naðsaret.

Æ sem e, og œ sem ö, t. d: Æneas, Irenæus, Oeconomus, Fœbus, les: Eneas, Jreneus, Ökónómus, Föbus.

## Bönd og Skammstafanir.

Al. Aln. les: alin, álnir.
Amm. les: amen.
Bls. les: blaðsíðu.
Cap. les: kapítula.
etc. les: etcetera.
Mk, les: mark (16 sk).
m. m. les: með meiru.
Mr. les: Monsieur, úttalast: Mossjö.
No. les: númer.
Fd. les: fjórðúngur.
H. les: heilagur.
Hra. les: herra.
Hdr. les: hundrað.
Lpd. les: lísipund.
Rbsk. les: ríkisbánkaskildíng.
Skpd. les: skippund
Sgr. l. Seigneur, úttalast: Sennjö.
Sra. les: Síra.

N. V. les: nafnverð.
o. s. frv. les: og svo framvegis.
Pag. les: pagína.
Pd. les: pund (32 lóð).
Rdlr. les: ríkisdalur.
Rbd. l. ríkisbánkadalur.
St. les: sáncte.
S. V. l. silfurverð,
sk. les: skildíng.
t. d. les: til dæmis.
Þ. á. l. þessa árs.
Þ. e. les: það er.
Þ. m. l. þessa mánaðar.

Merk: 1 eldri bókum brúkast ꜳ fyrir á og w fyrir ú, t. d: ꜳngur, þwngur, les: ángur, þúngur; z gyldir við s og annan bókstaf til, svo sem: þez, lanz, telz, les: þess, lands, telst; breyttur bókstafur í miðju eða enda orðs, gyldir við tvo óbreytta sama heitis, til dæmis: HaLur, SveiN, les; Hallur, Sveinn.

---

## 23. Vetrarvika.

---

*Til fullkomins lestrar heyrir enn þá, að þekkja tölurnar, þeirra myndir og gyldi; það skal nú vera vikuskamturinn ykkar í þetta sinni. Tölustafir þessir kallast Siffrur eða Siffrutala, og eru myndirnar tíu.*

| 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 | 7 | 8 | 9 | 0 |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| einn | tveir | þrír | fjórir | fimm | sex | sjö | átta | níu | núll. |

Merk: Af því núllið merkir alls ekkert, þegar það stendur eitt sér, verður að setja einhvern merkjandi

tölustaf af hinum níu fyrir framan það, og þá eykst þess sama gyldi um svo marga tugi eða tíu, sem sá stafur þýðir, t. d.: setji eg 1 framan 0, verða það einir tíu, en setji eg 2 á sama stað, verða það 2 tugir eða tuttugu, o. s. frv.; höldum nú áfram!

**10 11 12 13 14 15 16**
tíu ellefu tólf þrettán fjórtán fimmtán sextán
**17 18 19 20 21 22**
seitján átján nítján tuttugu t. o. einn t. o. tveir
**23 24 25 26 27**
t. o. þrír t. o. fjórir t. o. fimm t. o. sex t. o. sjö

Nú er komin bókstafa talan; teljið nú sjálf eptir á fíngrunum — það stendur heima — 3 fíngur gánga af í þriðja sinni — nú áfram!

**28 29 30 31 40**
t. o. átta t. o, níu þrjátíu þrját. o. einn fjörutíu
**42 50 53 60**
fjörut. og tveir fimmtíu fimmt. og þrír sextíu
**64 70 75 80**
sextíu og fjórir sjötíu sjötíu og fimm áttatíu
**86 90 97 100**
áttatíu og sex níutíu níutíu og sjö hundrað
**108 109 110**
hundr. og átta hundr. og níu hundr. og tíu
**111 212 313**
hdr. og ellefu tvöhdr. o. tólf þrjúhdr. o. þrettán
**414 515 616**
fjögurhdr. o. fjórt. fimmhdr. o. fimmt. sexhdr. o. sext.

| 717 | 818 | 919 |
|---|---|---|
| sjöhdr. o. seitján | áttahdr. og átján | níuhdr. og nít. |
| 1000 | 1001 | 1102 |
| eitt þúsund | eitt þús. og einn | 1 þús. 1 hundr. og 2. |

1 8 3 6

1 þúsund 8 hundruð þrjátíu og 6.

Merk: Hèr af sjáið þið, börn góð! að eptir því, sem hverr tölustafur geingur leingra framm frá hægri til vinstri handar, eptir því eykst hans gyldi tíusinnum meira enn hins undangángandi, t. d. í 1111, þýðir sá síðasti 1. eina einíngu, sá annar 1, nær vinstri hendi, tíu einíngar eða 1 tug, sá þriðji 1 næst sömu hendi, tíu tugi eða tíutíu einíngar, og fjórði 1, tíutíu tugi eða einíngar, sem er lesið: eitt þúsund eitt hundrað og ellefu. 12,345, les: tólf þúsund þrjú hundruð fjörutíu og fimm. 123,456, les: eitt hundrað 23 þúsundir 4 hundruð 56. 1,000 000, les: 1 millíón, eða þúsundsinnum þúsund, eins og kennir hin gamla

## M i n n i s v í s a:

Sig (einíngu) mest merkir hinn fyrsti,
Mann, tíu kvað annar,
Hundrað þýðir hinn þriðji (tölustafur),
Þúsund fjórði (stafur), vel grunda;
Tíu þúsund tel fimmta (staf),
Tel hundrað þúsund sjötta,
Sjöunda mèr klerkar kenndu
Að kalla þúsund þúsunda, (millíón).

Til er og annað töluletur, uppfundið af Rómverjum, sem kallast: rómversk tala; þess

myndir eru einúngis **sjö bókstafir**, nefnilega: I þýðir einn, V fimm, X tíu, L fimmtíu, C hundrað, D fimm hundruð og M þúsund; eptir því, sem bókstafir þessir eru samansettir, verður gyldi þeirra, eins og þið sjáið á eptirfylgjandi

## Tölu röðum:

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| I | II | III | IV | V | VI | VII | VIII |
| 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 | 7 | 8 |
| IX | X | XI | XII | XIII | XIV | XV | |
| 9 | 10 | 11 | 12 | 13 | 14 | 15 | |
| XVI | XVII | XVIII | XIX | XX | | | |
| 16 | 17 | 18 | 19 | 20 | | | |
| XXI | XXIX | XXX | XL | L | LX | | |
| 21 | 29 | 30 | 40 | 50 | 60 | | |
| LXX | LXXX | XC | C | CC | CCC | | |
| 70 | 80 | 90 | 100 | 200 | 300 | | |
| CD | D | DC | DCC | DCCC | CM | | |
| 400 | 500 | 600 | 700 | 800 | 900 | | |
| M | MCI | MCCII | MCCCIII | MCDIV | MDV | | |
| 1000 | 1101 | 1202 | 1303 | 1404 | 1505 | | |
| MDCVI | MDCCVII | MDCCCXLVI. | | | | | |
| 1606 | 1707 | 1846. | | | | | |

Merk: Hèr af sèst: að smærri talan eykur við eptir hina meiri, en mĭnkar hana, ef fyrir framan stendur, t. d. í IV hèr að ofan, mínkar V um 1 af því I stendur fyrir framan, en eykur sömu V um einn

í VI, af því I stendur þar á eptir: eins er í IX (9), XL (40), XC (90), CD (400), og CM (900).

---

## 24. Vetrarvika.

---

*Fyrst ykkur gekk vonum framar vel að telja úr tölum, vikuna sem leið, þá er ykkur, sè eg, ætlað þessa, að nema híð fyrsta og einfaldasta undirlag í reikníngi, lítið á! það er ágæt mennt.*

Yfir höfuð gefast fjórar Reikníngstegundir, sem eru: að leggja saman, draga frá, margfalda og deila. Nú skulum við fyrst reyna til að

### leggja saman.

| | |
|---|---|
| Þú áttir í stokkinum þínum | 4 skeljar, |
| hann Ásbjörn gaf þèr . . . . | 6 — |
| hve margar áttú þá nú? | alls 10 skel. |

Lít nú á þær tvær tölur, sem standa þarna hverr upp af annarí ofan strykið, seig svo: 6 og 4 eru 10, drag þverstryk undir, og skrifa 10 þar fyrir nedan; það heitir að leggja saman.

Nú viljum við reyna til að

### draga frá.

Það er þvert á móti því að leggja saman, til dæmis:

Í stokkinum þínum áttú nú þegar 10 skeljar, af þeim gefur þú systur þinni . 5 —
hvað verða þá margar eptir? svar: 5 skel.

Nú segir þú: 5 frá 10, verða eptir 5, sem þú sèr að standa fyrir neðan strykið.

Við frádragníngu verður ætíð að líta eptir því, að minni talan, sem dragast á frá þeirri meiri, standi rètt undir þessari; því auðsært er, að ekki verður dregin nema minni tala frá meiri.

Nú skulum við vita hvernig geingur með hina 3ju reiknings tegund, sem heitir að

m a r g f a l d a.

Fyrst þèr þykir svo vænt um skeljar, ætla eg nú að gefa þér í 3 daga 4 fallegar skeljar hvern dag; en þú átt í staðinn að segja mér, hvað margar verði skeljarnar til samans, er þú þannig fær.

Skrifa með krítarmolanum þínum 4 skeljar;
skelja-töluna sem þú átt von 3 dagar.
á dag hvern, þær eru 4, þar 12 skeljar.
undir dagatöluna, sem eru 3,
drag þverstryk undir, og seig: 3svar 4 eru 12, er þú skrifar neðan strykið, sem sýnir summu skeljanna, eg alls á að gefa þèr. Vel og gott! þú skalt líka fá þær, takist þèr ekki miður með þá síðustu reikn-

íngstegundina, sem hèr kemur á eptir og kallast:

## Deilìng.

Hún er raunar ekki annað enn frádragníng, en fljótari og fyrirhafnarminni.

Eg vil, t. d.: gefa þèr og hinum börnunum báðum, 12 jarðepli að steikja, og skipta þeim í 3 jafna staði milli ykkar; hve mörg epli mun þá hvert ykkar geta fengið? svar: 4, og set nú dæmið upp þannig:

3) 12 (4
   12
   ---
   00

Fyrst skrifa eg 3, og set við þá hálfhríng, það er barnatalan eða deilirinn; þar næst 12, sem er epla talan eða deilandinn, og segi: 3 í 12 hefi eg 4 sinnum, set nú hálfhríng fyrir aptan 12, og skrifa þar 4, sem er kvótinn eða hlutatalan, hverja eg margfalda með deilirnum, og segi: 3svar 4 eru 12, þá set eg undir deilandann, og dreg þverstryk fyrir neðan, og segi nú: 12 frá 12 verður ekkert eptir, skrifa því 00 (núll) neðan strykið, sem sýnir, að 4 epli eru í hlut, en enginn afgángur. Með frádragníngu kunni þetta líka að gjörast, þegar 4 voru 3svar dregnir frá 12, en það er miklu seinlegra.

## 25. Vetrarvika.

---

L*íður á lærdómsyðkana tímann, Börn góð! nú er vel hálfnaður Einmánuður, skerðtar 2 vikur til Sumars; er ykkur nú, til frekari æfíngar og eptirþánka, ætlað næstu viku að lesa um tíðina, og hennar ýmislegu skipti; takið vel eptir því!*

### Um tíðina.

Tíðin er einhver sú dýrmætasta gáfa Guðs. Hún er manneskjunni veitt til framfara í góðu og gagnlegu, svo hún geti fyrir það orðið fullkomnari, og hæf til sælu síðarmeir.

Tíðinni er skipt í aldir, ár, missiri, árstíðir, mánuði, vikur og daga.

Ein öld er 100 ára tími.

Í einu ári reiknast 2 missiri, vetur og sumar, en 4 árstíðir, sem eru: vetur og sumar, vor og haust; hvert missiri er því helmíngur, en hver árstíð fjórðúngur af ári.

Einn mánuður reiknast almennt 4 vikur eða 28 dagar; verða þá 13 þvílíkir mánuðir í árinu. Almanaks-mánuðir eru einúngis 12, því þeir eru lengri; hafa 7 þeirra 31 dag, hinir 30, nema febrúaríus, sem hefir 3 ár sam-

fleytt 28, en 4ða hvert ár, sem kallast hlaupár, 29 daga.

Mànuðirnir heita:

1) Janúaríus, eða miðsvetrar-mánuður, hefir 31 dag; með honum byrjast árið, og hann hálfnar veturinn. Fyrra part þessa mánaðar er brundtími sauðfjár.
2) Febrúaríus, eða föstugángs-mánuður, hefir 28 daga og 1 betur á hlaupári; þá búa kallmenn sig til fiskiveiða í verstöðum.
3) Martíus, eðajafndægra-mánuður, hefir 31 dag; nú er vertíð við sjó, og vorið byrjar.
4) Aprílis, eða sumar-mánuður, hefir 30 daga; þá byrjar sumar-missirið, lengir daga og mínka frosthörkur.
5) Maius, eða fardaga-mánuður, hefir 31 dag; þá er unnið á túnum, sáð til maturta, sauðburður hefst og fuglar verpa.
6) Júníus, eða nóttleysu-mánuður, hefir 30 daga; þá er lengstur dagur; nú er plantað kál, rúið sauðfè, lömbum fært frá og rekin á afrètt.
7) Júlíus, eða miðsumars-mànuður, hefir 31 dag; þá eru dregin að búfaung, flutt í sel, farið á grasafjall og byrjaður sláttur.

8) Augustus, eða heyánna-mánuður, hefir 31 dag; þá standa yfir heyannir, hirdt tún og yrktar engjar.
9) September, eða aðdrátta-mánuður, hefir 30 daga; þá enda heyannir, en byrjast haustið, gjörð fjallskil, hirdtar matturtir.
10) Octóber, eða slátrunar-mánuður, hefir 31 dag; þá byrjar vetrar-missirið; nú er færð myki á tún, slátrað búfè, en börn byrja stöfun.
11) Nóvember, eða riðtíðar-mánuður, hefir 30 daga; nú er setst að við ullar-tóvinnu og hirðtur búsmali.
12) December, eða skammdegis-mánuður, hefir 31 dag; hann endar árið; þá er styttstur dagur, en vökur lengstar.

Ein vika er sjö dagar, er svo heita: sunnudagur, mánadagur, þriðjudagur, miðvikudagur, fimmtudagur, föstudagur og laugardagur.

Einn dagur eða sólarhríngur, sem hjá oss reiknast frá miðnætti til miðnættis, er 8 eyktir eða dagsmörk, sem heita:

Miðnætti, ótta, miðurmorgun, dagmál, hádegi, nón, miðuraptan, náttmál; hver eykt er 3 klukkustundir, eða 24 í sólarhríngnum; ein klukkustund er 60 mínútur, og ein mínúta 60 sekúndur.

Merk: Stjörnufræðíngar telja daginn frá hádegi til hádegis daginn eptir.

---

## 26. Vetrarvika.

---

*Hana nú! síðasti vikuskamturinn er einúngis eptir, mun ykkur ekki hvað sízt takast með hann, svo endirinn verði betstur; því fagnaðarsælla verður ykkur sumarið á fimmtudaginn kemur; þá fer bústaður okkar, jörðin, úr því að blómgast; gleði er til þess að þeinkja! ofurlítið ágrip um vors hnattar sköpulag fáum við í efninu, sem núna kemur.*

### Um jörðina.

Jörðin er falleg og furðu stór. Margfalt stærri er hún enn sjónhríngur sá, sem við getum deilt með augann. Sköpulag hennar er eins og hnattar eða hnoða, og hvað furðanlegast er, hún er sífelt að snúast um í kríng, og fljúga fram og aptur í lausu lopti. Mikið af jarðarhnettinum er þakið sjó og vötnum, svo ekki er nema lakur einn þriðjúngur hans þurrt land.

Mennirnir byggja á þurrlendinu, og teljast að vera þúsund milliónir, en hver millíón er þúsundsinnum þúsund. Fiskurinn sveymar í sjó og vötnum, en fuglinn flýgur í loptinu.

Á jörðinni vex gras, urtir, trè og allra handa ávextir, mönnum og skepnum til margfaldra nota. Manneskjan neytir korns, urta, aldina, mjólkur- kjöt- og fiski-matar, eggja, o. s. fr., en fènaðurinn fóðrast á grasinu.

Trèð er einn sá þarfasti ávöxtur og ómissandi til húsabygginga, skipasmíðis og margfaldra nauðsynja-áhalda.

Úr jörðinni fást gimsteinar, svo sem: demant, með hverjum glerið er skorið, rúbín, saphír, o. s. fr. og málmar, svo sem: gull*), silfur, kopar, tin, blý, járn, og margar fleiri málmtegundir, sem mennirnir brúka sèr til þarfa, til prýðis, hægða, verkfæra og varnar.

Demantinn er rarasti gimsteinninn, gullið dýrmætasta málmtegundin, en járnið allra nauðsýnlegast. Úr því er smíðaður hnífurinn til að borða með, skærin til að klippa með, ljárinn til að slá með, og ótal fleiri nauðsynjaverkfæri.

Á jörðinni eru margar mishæðir, svo sem: fjöll, heiðar, hálsar, hólar, og hryggir. Fjöllin draga að sèr skýin. Úr skýunum kemur regnið, sem fellur yfir jörðina, henni til frjófgunar.

*) Á meðal al-málma, er platína eða hvítagull hið kostulegasta; það er járni harðara, örðugra að bræða og eðlisþýngra enn rauðagullið. Síðan árið 1736, hefir það fengist frá Peru í Suðurameríku.

Fram um dalina milli fjallanna renna elfur, ár og lækir, sem gefa gott vatn. Upp í árnar geingur lax og silúngur úr sjónum fram til sveita.

Upp úr hafinu standa stórar eyar, hólmar og sker um alla jörðina. Ein af þessum eyum er landið, sem við byggjum; það liggur norðarlega á hnettinum og heitir: Ísland. Fólkstala þess var árið 1801, 47 þúsundir, 2 hundruð og 7; en 2 febrúar 1835 töldust hèr 55 þúsundir, 7 hundruð og 37 manneskjur. Stórt er land þetta að vísu, en þó ofurlítill partur af jörðunni allri. Af því það er umflotið af sjó á allar síður, kallast það eya, en í fornöld, þá er Naddoddur víkíngur fann það fyrstur, nefndi hann það Snæland; þar næst hèt það Garðarshólmi og síðast Ísland.

Í sjónum er ótal margt fiskakyn; úr honum veiðist: þorskur, ísa, skata, heilagfiski, hrognkelsi, steinbítur, háfur, hákall og margt fleira, manneskjunum til lífs-viðurhalds.

---

Svona hefir Guð dásamlega tilbúið jörðina; mikið hagur smiður má hann vera, mikið máttugur, mikið vís og mikið góður! æ, látum okkur þykja ofur vænt um hann! lofum hann og þökkum honum, og byrjum með því

hugarfari sumarið á morgun, og sýngjum þá með andakt sálminn Nr. 257 í okkar Messusaungsbók: Guðs gæðsku prísa, o. s. fr.

---

## Margföldunar tabla.

| | | | | | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 9 sinn. | 9 | eru 81 | 8 sinn. | 8 | eru 64 | 7 sinn. | 7 | eru 49 |
| 8 — | 9 — | 72 | 7 — | 8 — | 56 | 6 — | 7 — | 42 |
| 7 — | 9 — | 63 | 6 — | 8 — | 48 | 5 — | 7 — | 35 |
| 6 — | 9 — | 54 | 5 — | 8 — | 40 | 4 — | 7 — | 28 |
| 5 — | 9 — | 45 | 4 — | 8 — | 32 | 3 — | 7 — | 21 |
| 4 — | 9 — | 36 | 3 — | 8 — | 24 | 2 — | 7 — | 14 |
| 3 — | 9 — | 27 | 2 — | 8 — | 16 | | | |
| 2 — | 9 — | 18 | | | | | | |
| 6 sinn. | 6 | eru 36 | 5 sinn. | 5 | eru 25 | 4 sinn. | 4 | eru 16 |
| 5 — | 6 — | 30 | 4 — | 5 — | 20 | 3 — | 4 — | 12 |
| 4 — | 6 — | 24 | 3 — | 5 — | 15 | 2 — | 4 — | 8 |
| 3 — | 6 — | 18 | 2 — | 5 — | 10 | 2 — | 3 — | 6 |
| 2 — | 6 — | 12 | 2 — | 3 — | 6 | 2 — | 2 — | 4 |

---

# Á V Í S A N

til

k e n n e n d a n n a

*um brúkun þessa stöfunarkvers.*

---

Auk hinna einstöku tilvísana, sem skýríngargreinir á fáeinum stöðum í kverinu gefa um kennslumáta þess efnis, er þær heyra til, vil eg til frekari aðgætslu og leiðarvísirs þeim kæru foreldrum og kennendum, sem nota vilja þetta s t ö f u n a r k v e r, stuttlega greina, hvernig eg hygg það brúkað yrði með betstu notum.

1) Væri það í öndverðu óskaráð, strax sem börn fara að bera kennsli á og geta nefnt limina á sèr og hlutina um kríng sig, þá undir eins að kenna þeim að stafa til enna lèttusu eins aðkvæðis orða, t. a. m. vildi

foreldrið spyrja barnið: hvað heitir þetta? þá um leið stafa fyrir því hlutinn, og láta það hafa eptir, svo sem: hár *hár*, kinn *kinn*, hönd *hönd*, háls *háls*, knè *knè*, tár *tár*, skyrspónn, sleif, og fl., eptir atvikum; liðkar það bæði málfæri barnsins og ryður mun greiðari veg til stöfunar á síðan á kverinu.

2) Er ætlað svo til, að blað það, sem næst er titlinum, og stafrofið er prentað á með stóru letri, verði börnunum fyrst sýnt við og við, svo sem gersemi, þegar vel liggur á þeim, og þeim þá um leið kynntar bókstafanna myndir og heiti; en sem barnið væri búið að læra að þekkja þá nokkurnveginn, skyldi kennarinn sýna því fyrst, og þar eptir láta það sýna sèr, á blaðinu, stafina, er lægju til einhvers smáorðs, sem hann nefndi fyrir því; spyrði hann t. a. m. hverjir bókstafir liggja þarna til bók *bók*, kver *kver*, spjald o. s. frv; ætti þetta að gjörast á útmánuðum, veturinn áður enn byrja skyldi stöfun á sjálfu kverinu veturinn eptir, þó ekki fyrr enn barnið væri 3½ eða fullra 4 ára.

3) Nú er byrjað á kverinu, þegar barnið er vel á 5ta ár komið; skyldi þá fyrst bera saman stafina á blaðinu við þá á kverinu, minna 3svar eða 4sinnum á, dag hvern, en aldrei láta dag úrfalla til sumarmála, nema því að eins, að hið fyrirsetta væri vel af hendi leyst.

4) Fyrirsagnir og skýríngar-greinir sem fyrirkoma, eru einkanlega ætlaðar þeim, er kenna — sem optast eru bóndi og húsfreya — til glöggvunar, en ekki börnum, meðan skilníng brestur, til stöfunar. Annars er þetta Barnagull frá upphafi til enda, ætlað börnum til fyrstu lestrar-æfíngar, og ætti ekki að yfirgefast, fyrr enn þau væru vel stautfær, og hefðu numið innihaldið til hlýtar. Úr því mætti fá þeim í hendur Sumargjöf handa börnum, Campes siðalærdóm og sálarfræði, Náttúruskoðarann, Gallettis kennslubók og fl., sem allt eru ágætar, útvaldar barnabækur.

5) Að kverinu er skipt í vikuskamta, er ekki í þeirri veru, að börn yfir höfuð,

fái því aflokið á einum vetri, þó ekki sè efandi, að mörg gefist svo gáfuð, að ekki yrði það ofvaxið; heldur örfar það lyst og alúð, þegar barnið veit fyrifram hversu lengi það á að stafa eða lesa í einu, og hlakkar því meir til frítímans á eptir.

---

